GUÐM. FINNBOGASON:

# Um viðhald íslenzks þjóðernis í Vesturheimi

ERINDI FLUTT VÍÐSVEGAR Í BYGÐ-
UM ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI



WINNIPEG
Prentsmiðja Columbia Press, Ltd.
1916

# Viðhald íslenzks þjóðernis í Vesturheimi.

---

**Íslendingar! Háttvirtu áheyrendur!**




AÐ er sagt um sum orð, að þau verði f l e y g. En flugfjaðrir vaxa á þeim orðum einum, sem blaka við einhverri djúpri og almennri hugsun. Eins og fuglinn getur ekki flogið í loftleysinu, eins detta orðin niður dauð og máttlaus, ef þau hafa ekki andrúmsloft hugsananna undir vængjum. Það er varla ofmælt, að engin orð hafi verið fleygari meðal ykkar íslendinga hér vestra síðustu vikurnar, heldur en orðin: "Hvert stefnir?" Af því má sjá, að þau hafa snortið hugsun, sem bjó í hvers manns hug. Það hefir verið fjallað um þau í ræðu og riti, og það er búið að segja svo margt, að þegar eg nú kem og legg orð í belg, þá fer fyrir mér líkt og svínahirðinum í sögunni; hann stóð orðlaus, þegar hann átti að fara að segja hvað hann ætlaði að gera, ef hann yrði kóngur. Félagar

hans voru búnir að nefna það, sem þeir höfðu hugsað sér að gera, þegar þeir væru orðnir kóngar, svo honum fanst þeir vera búnir að taka alt frá sér. Eg verð því fyrirfram að biðja ykkur að afsaka, þótt það sem eg segi nú verði ef til vill flest gamalkunnugt og margsagt áður.—

Spurningin: "Hvert stefnir?" er um þjóðerni vort hér vestan hafs. Og að orðin eru vel valin, sjáum vér enn betur, ef vér gefum gaum að öðru íslenzku orði, sem merkir sama og stefna. Það er orðið á t t. En átt og ætt er sama orðið, enda haft jöfnum höndum að fornu fari. Það er eitt dæmi um orðspeki íslenzkunnar. Bak við liggur fólgin sú hugsun, að eins og tvær áttir falla aldrei saman, svo sé og um ættirnar. Eðli hverrar ættar er eins og sérstök stefna, er greinir hana frá öðrum ættum. Svipuð hugsun kemur fram í orðinu k y n k v í s l. Eins og elfan getur greinst í ýmsar kvíslir, svo greinist mannkynið í ættir, er hver hefir sína eðlisstefnu, fer sinna ferða. En orðið ætt er og af sömu rót og orðið að e i g a. Ætt manns eru þeir, sem manni heyra til. Í ættarhugtakinu virðist þannig fólgið tvent: e i g n og s t e f n a. Og það er skiljanlegt. Eiginlegasta eign hvers manns er upplag hans eða eðli, en það ræður lífsstefnu hans. En eðlið er arfur frá foreldrinu, föður og móður, öfum og ömmum og

alt til fyrstu foreldra. Ættin heyrir saman af því að hún á saman eðli og hver finnur hjá sínum ættingjum eitthvað sameigið við sitt. Eg veit vel, að margur virðist í fljótu bragði ólíkur frændum sínum, "hann sver sig ekki í ættina", segja menn, en oftast mun það koma af því, að vér þekkjum þá að eins fátt af ættingjunum, og hins vegar getur ólíkt uppeldi, mismunandi lífskjör, lagt eins konar huliðsblæju yfir eðlið, sem undir býr, svo að erfitt verði að greina það í fljótu bragði. En það finst oftast, þegar dýpra er grafið.

En ættirnar blandast á ýmsa vegu, og því verður erfitt að rekja hlutdeild hinna mörgu ætta í eðli hvers einstaklings. Vér Íslendingar, sem nú lifum, höfum sjálfsagt eitthvað úr flestum þeim, sem bygðu Ísland í öndverðu og niðja áttu. Þess vegna segja ættfræðingarnir, að flestir gætu rakið ættir sínar saman aftur á landnámstíð, ef ekki fyr, ef vér vissum um allar ættir í landinu. Þannig má líkja þjóð vorri við elfu, sem runnið hefir í ótal kvíslum síðan hún tók sig upp í öðrum löndum og streymdi til Íslands. Þessar kvíslir hafa sameinast og greinst aftur alla vega, en allar eru þær eins og greinar í einu og sama æðakerfi, sem er þjóðarinnar. Í þessum skilningi erum vér allir einnar ættar, því að þjóð vor hefir um þúsund ár ekki að neinu ráði blandast

við aðrar þjóðir. Vér höfum allir eitthvað skylt eðli, svo ólíkir sem vér kunnum að virðast í fljótu bragði. Í oss öllum er íslendingseðlið, þó erfitt kunni að vera að segja í fám orðum í hverju það er fólgið. Slíkt finnum vér betur en hvað vér getum lýst því. Vér finnum það bezt í sambúð við menn af öðrum þjóðum. Vér könnumst bezt við það á því að reka oss á það, sem ekki er vort. Það getur stundum um skeið farið svo fyrir oss, er vér sitjum í hvirfing með annara þjóða mönnum, að vér gleymum því, hvað er vort og hvað þeirra, eins og Bakkabræður þektu ekki hver sína fætur, er þeir sátu við laugina. En þeir þektu hver sína, þegar á þá var slegið, og vér könnumst fljótt við íslendingseðlið, þegar það mætir mótspyrnu eða við því er steytt. Þá finnum vér allir, á hvaða fótum vér stöndum.

En það eru fleiri bönd en blóðböndin, sem binda hvern mann við sína þjóð. Auk þess eðlis, sem vér erfum frá forfeðrum vorum, höfum vér og erft það lífssnið, sem fólgið er í menningu þjóðarinnar. "Enginn lifir sjálfum sér eingöngu." Hver maður verður að einhverju leyti fyrirmynd þeirra, sem hann lifir með, einkum yngri kynslóðarinnar. Hún líkir sjálfrátt og ósjálfrátt eftir því, sem hún sér fyrir sér haft. "Það nema börn sem í bæ er títt." Þannig verða siðir forfeðranna og hugsunarháttur og líf-

stefna eins og vörður, sem vísa veg og valda því, að menn fara ekki allir hver í sína áttina, heldur halda að mestu sömu stefnunni um öræfi aldanna. Því kveður eitt skáldið okkar:

"Víða eru vörður reistar
á vegum þessa sögulands;
úr fornöldinni fljúga neistar
framtaksins og hraustleikans."

"Enginn deyr sjálfum sér," því verkin, sem hann hefir unnið, lifa eftir og setja að einhverju leyti mót sitt á verk annara manna. Það sem forfeður vorir hafa skapað í siðum, trú, vísindum, listum og öðrum framkvæmdum, það hefir verið að miklu leyti sú andlega næring, sem vér höfum dafnað á. Það hefir frá annari hlið skoðað verið það mót, sem vér meira og minna steypum verk vor í, snið, er vér sníðum þau eftir—háttur, sem vér kveðum undir. Þess vegna fær líf hverrar þjóðar sitt snið og sitt eðli, að uppspretturnar eru ólíkar og þar með stefnurnar, sem þær streyma í. Því lengur sem þjóð þroskast óháð öðrum, því dýpri farveg grefur eðli hennar sér. Hver kynslóð víkur að vísu nokkuð frá því, sem forfeðurnir gerðu, hún lagar sig eftir atvikunum, eins og áin streymir ekki alt af beint, heldur víkur fyrir hóla og kletta, en þótt hún falli í bugðum, getur aðalstefnan haldist, ef landslag er ekki því óreglulegra. Svo er

um þjóðirnar. Þær halda sinni meginstefnu meðan lífskjörin gjörbreytast ekki, eða aðrar máttugri þjóðarelfur streyma ekki öfugt á þær og hrinda þeim af leið.

Auk þess sem börn einnar þjóðar eiga sameiginlegt eðli og menningararf, eiga þau og í sálum sínum sameiginlegar minningar um náttúru lands síns, og þessar minningar móta hugann. Hvergi hygg eg að þetta komi skýrar fram en í ýmsum kvæðum, sem kveðin hafa verið til Íslands vestanhafs, og hvergi fagurlegar en í kvæði Stephans G. Stephanssonar: "Þó þú langförull legðir," sem hver Íslendingur ætti að kunna:

"Yfir heim eða himin
hvort sem hugar þín önd,
skreyta fossar og fjallshlíð
öll þín framtíðar lönd!
Fjarst í eilífðar útsæ
vakir eylendan þín:
nóttlaus vor-aldar veröld
þar sem víðsýnið skín."

Af öllum þessum rótum, er eg nú drap á, sprettur þjóðræknin. Hún sprettur af meðvitundinni um andlega eign og eðlisstefnu þeirrar þjóðar, sem maður heyrir til. Hún sprettur af skilningnum á því, að maður er hold af þjóðarinnar holdi og sál af hennar sál, að þaðan hefir maður fengið séreðli

sitt og þá andans næringu, er gaf því vöxt og viðgang. Þess vegna sjáum vér það löngum, að þjóðræknustu mennirnir eru þeir, sem bezt þekkja sögu þjóðar sinnar og alt það, sem hún hefir skapað. Því betur sem þeir þektu það, því betur fundu þeir og skildu, að þetta var alt með nokkrum hætti þáttur af sjálfum þeim, ofið saman við eðlistaugar sjálfra þeirra, svo að ekki verður upp rakið. Þjóðrækni manns sprettur því af þekkingu hans á eðli sjálfs sín, er hann fær útsýn yfir samband þess og samtvinnun við eðli og örlög þeirrar þjóðar, sem hann er runninn af. Vér höfum líklega aldrei átt þjóðræknari mann en Jón Sigurðsson, en enginn Íslendingur hefir þekt betur sögu þjóðar vorrar en hann.

Því betur sem menn mentast, því skýrar koma að jafnaði eðliseinkennin í ljós og þar með þjóðernið. Það er munur á andliti unga og óþroskaða mannsins og hins, sem fengið hefir fullan andlegan þroska. Annað er eins og myndin í frumdráttum sínum, hitt eins og hún lítur út, þegar meistarinn hefir lagt síðustu hönd á hana. Og því ómentaðri sem menn eru, því fljótar mást þjóðerniseinkennin af. Það er t.d. eftirtektavert, hve fljótt algjörlega ómentaðir menn gleyma móðurmáli sínu, er þeir búa meðal erlendra þjóða og tala það ekki né lesa. Þeir glata andlegri eign sinni svo fljótt vegna þess, hve lítil hún

er. Mótið máist af sökum þess, að það er svo grunt.—

Ef vér nú lítum á oss Íslendinga, þá hygg eg að enginn neiti því, að þjóð vor hefir eins skýr eðliseinkenni og hver önnur, er til verður nefnd. Eg á þar ekki svo mjög við ytra útlit og yfirbragð, þó glögt auga mundi einnig í þeim efnum finna sérstakan svip, er greindi allan fjölda Íslendinga frá öðrum þjóðum. Eg á við hin andlegu eðliseinkenni þjóðarinnar, eins og þau koma fyrir í sögu hennar og bókmentum. Landnámssaga þjóðar vorrar er nálega einstæð. Til Íslands veljast úr merkilegri þjóð margir þeir mennirnir, sem sjálfstæðastir eru og bezt ættaðir. Það eru menn, sem fengið hafa margir hverjir meira víðsýni, en aðrir samtíðarmenn þeirra, á ferðum sínum og hernaði meðal ýmsra menningarþjóða. Þeir koma að óbygðu landi og lifa þar eftir sínu höfði. Hugsa hvert mál frá grunni, óháðir öðru en lögum náttúrunnar og viti og atorku sjálfra sín. Þeir setja á stofn ríki, lýðveldi með fyrirkomulagi, sem þeir hafa að miklu leyti fundið upp sjálfir. Í öllum efnum fara þeir sinna ferða. Þeir ferðast mjög út um lönd, eru handgengnir konungum og höfðingjum, hvar sem þeir koma. Þeir hafa einskonar einkarétt á skáldskap og sagnalist. Og þeir skapa bókmentir af svo frumlegri og sjálfstæðri list, að allur heim-

ur dáist enn að og sér þar ævarandi fyrirmyndir. Þeir fylgjast með í vísindum sinnar tíðar og skapa sumir nýtt. Alstaðar er athugunin skörp og sjálfstæð. Stjörnu-Oddi gerir athuganir verkfæralaust, sem menn nú eru farnir að dást að. Þeir leiðrétta tímatalið eftir þörfum. Þeir smíða hljóðfræði málsins frá grunni og eru þar margar aldir á undan samtíð sinni. Þeir skapa nýja og sjálfstæða bragfræði. Þeir gerast siglinga og landkönnunarmenn, finna Grænland og Ameríku. Vér vitum, að eftir þessa framtaksöld komu aldir afturfara og hörmunga yfir landið. Þjóðin átti í stríði vio sjálfa sig, og við—

"ís og hungur, eld og kulda,
áþján, nauðir, svarta dauða,"

og þó hefir hún alt af verið sjálfri sér trú. Hún hefir alt af geymt vitundina um rétt sinn gegn útlendum þjóðum og reynt að verja hann eftir mætti. Hún hefir á öllum öldum, líka þegar mestar hörmungar gengu yfir landið, varðveitt ást á fróðleik, viðhaldið eftir mætti þeim andans arfi, sem forfeðurnir höfðu eftir látið, og aukið hann. Þráður bókmentanna hefir aldrei að öllu slitnað. Á öllum öldum höfum vér átt skáld, sem orktu eitthvað sem enn hefir gildi. Og þó ekki væri annað en rímurnar, sem í seinni tíð hafa verið í svo litlum heiðri hafðar, þá

sýna þær, ef til vill betur en flest annað, hve hneigð þjóð vor hefir verið til að hugsa sjálfstætt um hlutina. Hver sem athugar íslenzka rímnabragfræði hlýtur að undrast, hve mikið hugvit kemur fram í þessum óteljandi bragarháttum, sem þjóðin hefir hugsað upp. En hugvit hennar og smekkur hefir og komið fram í verkum handar engu síður en anda. Eg hefi komið á öll þjóðgripasöfn á Norðurlöndum, og mér hefir alt af verið það geðfelt, að sjá, hve vel íslenzkir skrautgripir, allskonar silfursmíði og víravirki, sómir sér þar. Enginn gengur fram hjá því án þess að staðnæmast og spyrja hvaðan þessir smekklegu gripir séu. Þeir hafa sérstakan svip, og mér finst þeir bera af flestu samskonar í kringum þá. Íslenzki tréskurðurinn og ábreiðurnar gömlu sóma sér líka vel. Af æðri listum öðrum en skáldskap hefir að vonum verið lítið hjá oss, en nú eru menn þó farnir að finna, að það liggur líka hugsun í íslenzkum rímnalögum og þjóðlögum, og tónskáldin eru farin að smíða úr þeim ný og veglegri verk.

En mesta og fegursta þrekvirki þjóðar vorrar er það, að hún hefir varðveitt tungu sína í þúsund ár svo lítt breytta, að þótt Egill Skallagrímsson eða Njáll eða Bergþóra eða Guðrún Ósvífursdóttir risu upp úr gröfum sínum, þá gætu þau talað við oss eins og foreldrar við börn sín. Þau mundu

skilja oss og vér þau. Og tunga vor hefir það til síns ágætis fram yfir flestar eða allar tungur, að í henni eru engar mállýzkur. Með öðrum þjóðum er það löngum svo, að alþýðan talar öðru vísi en mentamennirnir. Þar þykir ekki fínt að tala alþýðumál, og þegar það heyrist á leiksviðinu, fær það alt af kýmilegan blæ. En á Íslandi hafa beztu rithöfundarnir löngum þózt góðir, þegar þeir náðu tungutaki alþýðunnar, og sumir alþýðumenn vorir hafa ritað íslenzkuna svo sem bezt má verða, eins og t.d. Þjóðsögurnar sýna. Mörg íslenzk alþýðuskáld sitja á bekk með beztu skáldum þjóðar vorrar. Á þennan hátt á öll þjóðin sálufélag saman. Með tungunni nær íslenzk alþýða fyrirhafnarlaust menningarstigi, sem alþýða annara þjóða kemst ekki á fyr en eftir margra ára skólagöngu. Meðan þjóðin getur þannig talast við um þúsund ára bil, er það sem hún hugsaði fyrir þúsund árum jafn eiginleg eign hennar og það, sem hún hugsar í dag, því að

"Tungan geymir í tímans straumi
trú og vonir landsins sona,
dauðastunur og dýpstu raunir,
Darraðarljóð frá elztu þjóðum;
heiftareim og ástarbríma,
örlagahljóm og refsidóma,
land og stund í lifandi myndum
ljóði vígðum geymdir í sjóði."

eins og kveðið var til yðar, Vestur-Íslendinga, í ódauðlegu kvæði, þar sem yður var lagt á hjarta:

"yðar tungu (orð þó yngist)
aldrei gleyma' í Vesturheimi."

Það er óhætt að segja, að íslenzkan hefir síðan á gullöld bókmenta vorra aldrei lifað auðugra lífi en hún gerir nú. Það er fult af nýgræðingi í bókmentum vorum. Vér höfum aldrei átt fleiri ritfæra menn eða fjölhæfari, en vér eigum nú. Vér höfum aldrei átt fleiri söguskáld. Þar spretta upp nýir og nýir með hverju ári. Vér höfum aldrei átt betri ljóðskáld, en sum þeirra, sem nú eru uppi. Vér höfum aldrei átt leikritaskáld fyrri en nú, og sum þeirra eru nú að geta sér frægð erlendis, því vér erum farnir að hafa skáldskap til útflutnings á síðari árum, líkt og í fornöld, og það ber ekki á því, að íslenzkan sé því til fyrirstöðu að menn geti lært að rita á öðrum málum. Í sumum greinum vísindanna, sem Íslendingar hafa lítið fengist við áður, höfum vér og eignast menn á síðustu árum. Í tónlist og myndalist er talsverður nýgræðingur að koma upp. Vér eigum einn frægan myndhöggvara og nokkra málara. Alt þetta sýnir, að vaxtarbroddur þjóðernis vors er ókalinn enn þá.

Og ef vér svo lítum á atvinnuvegina, þá hefir afrakstur þeirra aldrei verið neitt

svipaður því sem nú. Verzlunin er að verða innlend, landbúnaðurinn er að vakna, og fiskiveiðarnar hafa stigið það skref áfram síðustu árin, að enginn efi er á því, að mikið auðsafn er í vændum af þeirri atvinnu. Þar er togaraútgerðin auðvitað uppgripamest. Maður, sem er henni gagnkunnugur, hefir gefið mér þessa skýrslu: "Togaraeign Íslendinga er nú 20 skip. Þar af 5 keyptir síðan um nýár 1915. Flestir keyptir nýsmíðaðir og hafa kostað 160—200 þús. kr. Fyrir stríðið var ársgróði á skip 30—60 þús. kr. og meðalafli á skip um 200 þús. kr., en útgerðarkostnaður um 150 þús. kr. Síðasta ár var meðalafli um 400 þús. kr., en kostnaður um 250 þús. kr., enda stunduðu þá öll skipin síldveiði, sem hleypir mjög fram umsetningunni. Hásetar hafa venjulega um 1200 kr. í árskaup. Síðasta ár var það um 1500 kr., og í ár verður það sennilega 2000 kr. vegna hins afarháa verðs á lifur, en hana hafa hásetar sem verðlaun. Skipstjórar hafa flestir 3% af brúttóafla og munu þeir hafa haft um 15000 króna tekjur síðasta ár."

Þetta var nú þessi grein sjávarútvegarins, og það er einkennilegt, að þó hún hafi þroskast þetta síðustu árin, þá hefir verið nóg völ á ágætum skipstjórum. Það verður því ekki lengur sagt, "að enginn kunni að sigla." Og nú höfum vér líka eignast skip til mannflutninga og vöruflutninga með bróðurleg-

um tilstyrk ykkar Vestur-Íslendinga. Það var á heillastund, að Íslendingar vestan hafs og austan tóku höndum saman um það fyrirtæki, því sú skipaeign hefir þegar verið landinu til mikillar blessunar, og eg held ekki að neinn efist um, að það fyrirtæki standi á föstum fótum. Í vetur hafa tveir íslenzkir útgerðarmenn keypt sitt gufuskipið hvor til flutninga fyrir sjálfa sig, svo ekki verður sagt annað, en að þessi grein framkvæmdanna haldi í horfið.

Eg hefi drepið á þessi atriði til að benda á það, að útlitið á Íslandi er nú að ýmsu leyti betra en nokkru sinni áður, svo að engir aðrir en illviðriskrákur geta efast um, að þjóð vor heima á Íslandi á fagra framtíð í vændum, svo framarlega sem vér fáum að halda sjálfstæði voru fyrir ágangi annara þjóða. Og þá kem eg að því atriðinu, sem er aðalefni erindis míns, og það er **viðhald íslenzks þjóðernis í Vesturheimi.** Og fyrsta spurningin er þá þessi: Er það æskilegt, að íslenzkt þjóðerni haldist við hér vestan hafs?

Eg þarf ekki að eyða mörgum orðum til að sanna, hve æskilegt það er fyrir oss, sem búum á Íslandi. Íslenzka þjóðin er fámennasta menningarþjóð heimsins. Á Íslandi eru nú tæpar 90 þúsundir manna, og mér er sagt, að Íslendingar hér vestan hafs muni vera að minsta kosti 30 þúsundir. Eftir því er

fjórði hver maður, sem íslenzku mælir, hér í Vesturheimi. Það er ekki lítill hluti. Það er mælt, að djúpir séu Íslands álar, en þó munu þeir væðir vera, og þessi hluti þjóðar vorrar hefir hingað til verið lifandi grein á þjóðarmeið Íslands—hefir staðið í lífssambandi við stofninn heima, fengið andlega næringu þaðan og gefið aftur. Æðar og taugar þessa sambands hafa verið bókmentirnar, bréfaviðskifti, mannaskifti, og, frá hálfu Vestur-Íslendinga, fjárframlög til þjóðþrifafyrirtækja á Íslandi. Bræður halda sjaldan glögga reikninga sín á milli, og eg er ekki fær um gera upp þennan reikning nákvæmlega. Það eitt er víst, að þjóð vorri heima á Íslandi hefir verið stórmikill styrkur að Íslendingum hér vestan hafs. Þeir hafa lagt drjúgan skerf til bókmenta vorrra og sumt af því svo gott, að vér teljum það með því bezta, sem vér eigum. Þeir hafa talað margt þarft vakningarorð til vor, sem eflaust hefir haft sín áhrif. Þeir hafa keypt íslenzkar bækur, aukið bókamarkaðinn og þannig styrkt íslenzkar bókmentir jafnt óbeinlínis sem beinlínis. En fyrst og síðast hafa þeir unnið það verkið, sem ómetanlegt er, og það er að sýna heiminum hvernig Íslendingurinn reynist, þegar hann kemur með tvær hendur tómar meðal annara þjóða og þreytir kapp við þær:

"Hér kom íslenzkt afl, sem hóf
upp úr jörðu steininn."

Þér hafið sýnt það, Vestur-Íslendingar, að íslenzka aflið var ósvikið, og steinninn, sem þér hafið lyft, skal vera yður ævarandi minnisvarði. Með því Grettistaki hafið þér glætt trú allra hugsandi Íslendinga á þá hæfileika, er í þjóð vorri búa, og það verður aldrei fullþakkað. Það er því skiljanlegt, að oss Íslendingum heima getur ekki staðið á sama, hvort vér missum yður úr hópnum eða ekki. Það er öllum sviplegt og sárt, að missa bræður sína. Það verður aldrei metið til fjár.

En vér, sem á Íslandi búum, getum ekki ráðið því, hvort þér haldið íslenzku þjóðerni nér vestan hafs eða ekki. Því verðið þér sjálfir að ráða. Þar verðið þér að ráðfæra yður við hjartalag sjálfra yðar. Þér eruð enn þá Íslendingar, um það verður ekki deilt. Spurningin er að eins sú, hvort þér eigið að stuðla að því, að börn yðar og barnabörn haldi íslenzku þjóðerni, og það verðið þér að ráða eftir því, hvað þér haldið að sé þeim fyrir beztu. Allir góðir foreldrar vilja kjósa börnum sínum og afkomendum þá framtíð, sem þeir telja fegursta. Alt annað er óeðlilegt. En í því vali verður hver að fara eftir sinni reynslu og sínum hugsjónum. Hvern kostinn þér takið, það verður að fara eftir því, hvers virði þér teljið það, sem ís-

lenzkt er. Og þá finst mér næst að spyrja: Hvernig hefir íslenzka eðlið og íslenzki menningararfurinn reynst yður sjálfum? Þar sýna verkin merkin. Eg hefi lesið þættina úr landnámssögu Vestur-Íslendinga, sem smámsaman hafa verið að birtast hér, og eg hygg að enginn óspiltur Íslendingur lesi þá landnámu svo, að hann komist ekki við og finni hlýjan aðdáunaryl streyma um hugann. Flestir koma hingað allslausir, hafa ekkert á að treysta annað en sjálfa sig og verða að berjast við alla þá örðugleika, sem frumbygðin á til. Þeir verða að lúta að lægstu verkunum til að draga fram lífið, og hvar eru þeir nú? Nú eru þeir margir og synir þeirra taldir einhverjir nýtustu menn, sem til þessa lands hafa komið Fulltrúar úr þeirra hópi sitja í bæjarstjórnum, á þingum, í ráðherrasæti og allskonar trúnaðarstöðum öðrum Hér er hvert íslenzka heimilið öðru ríkmannlegra og höfðinglegra. Hér eru ágætir íslenzkir fjármálamenn. Unglingarnir skara fram úr í skólunum. Hér hafa komið fram hugvitsmenn, stjórnmálamenn, mælskumenn, rithöfundar, og einhver frægasti landkönnuður, sem nú er uppi. Og svona mætti lengi telja. En þér vitið þetta sjálf alt betur en eg. Eg vil að eins spyrja: Bendir þetta á, að íslenzkt þjóðerni hafi verið hlekkur um fætur yðar Með hvaða vopnum hafið þér sigrað? Var það ekki

ættartanginn, sem hún móðir yðar brá undan skikkju sinni og fékk yður, þegar hún leiddi yður á götu? Beit hann ekki vel, þegar þér slóguð hann úr ryðinu? Og ef það er svo, hví munduð þér þá vilja láta það vopn ganga úr ættum?

En nú get eg hugsað mér, að einhver mundi svara sem svo: Það má vel vera, að íslenzka eðlið hafi verið oss styrkur í baráttunni, en menningararfurinn íslenzki var það ekki Vér komum hingað efnalausir og fákunnandi um flest, sem mest á reið. Vér höfum sigrað, af því að vér sömdum oss í sem flestum efnum að siðum og hugsunarhætti hérlendrar þjóðar og lærðum tungu hennar. Íslenzkan og bókmentaarfurinn íslenzki hefir ekki hjálpað oss, vér sigruðum með hérlendum vopnum.

Vér skulum líta á þessa röksemdafærslu. Á hverju hefir íslenzka eðlið dafnað? Mundi það hafa verið hið sama, þó vér hefðum átt aðra sögu, aðra tungu, aðra menningu? Það væri mikill misskilningur, að ímynda sér það. Hugsunarhátturinn, tilfinningarnar, viljinn fær snið sitt og stefnu eftir því, af hverju það nærist. Það sem skapar þjóðareinkennin, er það líf, sem þjóðin lifir, það andrúmsloft, sem leikur um hugann. Sálargáfurnar þroskast á samlífinu við það, sem sálir hafa skapað, og því hollari sem sá hugmyndaheimur er, sem andi manns

stendur í sambandi við, því heilbrigðari verður sálin. Hafi Íslendingar verið fljótir að átta sig hér í nýjum heimi og læra það, sem þeir þurftu til að komast hér áfram, mundi það þá ekki vera af því, að sú menning, sem andi þeirra hefir dafnað við, skilaði þeim andlega hraustum og heilbrigðum hér á landi? Mér finst það auðsætt. Eg sá í einu af síðustu blöðunum hérna erindi eftir gamlan íslenzkan bónda. Það endaði svona:

"Og gleymum því aldrei, að gullaldar mál
er gróðrarstöð vitsins í íslenzkri sál."

"Gróðrarstöð vitsins," það hefir íslenzkan verið síðan saga vor hófst. Þér megið taka hvaða tungu sem þér viljið, þér finnið ekki konungsmark andans skýrara á neinum orðum en sumum þeim, sem mótuð hafa verið á vorri tungu. "Það hygg eg, að þú yrkir betur en páfinn," sagði Magnús konungur við Sturlu Þórðarson forðum. "Heyra má eg boðskap erkibiskups - - - en ekki hygg eg að hann viti betur né vilji en vort foreldri, Sæmundur fróði og synir hans," sagði Jón Loftsson. Eg held vér getum sagt hið sama enn þá. Eg held vér eigum enn skáld, sem yrkja betur en páfinn, og eg held að aðrar þjóðir viti ekki betur né vilji en vort foreldri, ef vér tökum það sem bezt hefir verið í íslenzkri lund og íslenzkri hugsun til þessa dags.

Eg var í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg sunnudaginn 30. Apríl, þar sem haldin var snildarræða til íslenzku hermannanna. Það var brýnt fyrir þeim, að berjast vel undir merki Canadamanna, en ræðumaður sagði, að íslenzku hermennirnir væru hver og einn íslenzki fáninn lifandi. Og hvaðan voru fyrirmyndirnar, sem hann brá upp fyrir þeim, myndir hugprýði, drengskapar og trygðar? Þær voru allar af "voru foreldri." Þær voru allar íslenzkar. Og eg var að hugsa með sjálfum mér, hvernig ræðan hefði orðið, ef ræðumaður hefði að eins haft sögu Canada, hins nýja lands, til að vitna í,

"Þar sem frumbygðin sprettur upp fortíðarlaus
og fóstruð af samtíðaröld",

og eg get ekki neitað því, að mér fanst hún hefði ekki getað orðið eins góð af þeim efnum. Og jafnframt var eg að hugsa um það, hvernig þessi ræða hefði verið á ensku. Eg veit það vel, að enskar bókmentir eru auðugustu og að flestu ágætustu bókmentir heimsins, eg veit að enskri tungu er sízt orðavant, hvað sem segja þarf, en ósjálfrátt rann mér í hug þetta erindi úr "Lilju," kvæðinu, sem öll skáld vildu kveðið hafa:

"Fyrri menn, er fræðin kunnu,
forn og klók af heiðnum bókum
slungin mjúkt af sínum kóngum

sungu lof með danskri tungu;
á hvílíku móðurmáli
meir skildumst eg en nokkur þeirra
hrærðan dikt með ástarorðum
alsvaldanda kóngi að gjalda."

Og mér fanst, að Íslendingar mundu einmitt þá reynast nýtastir liðsmenn í þessu landi, hvort heldur í friði eða stríði, þegar þeir gengju fram í fylkingu sem íslenzkir menn, trúir fortíð þjóðar sinnar og endurnærðir af anda hennar. Mér fanst, að íslenzka berglindin mundi geta haldist lengi eins og björt og hrein rák í hinni miklu þjóðarelfu þessa lands, ef hún héldi sambandinu við uppsprettu sína, þar sem "hníga heilög vötn af himinfjöllum." Eg veit það er skoðun sumra manna, að kostir þjóðar vorrar og aðaleinkenni geti haldist, þó hún týni tungu sinni og sambandinu við sögu sína, ættland og bókmentir. En eg er þar á alt annari skoðun. Allir vita eða ættu að vita, að það sem frumlegast er í hverri tungu verður aldrei að fullu þýtt á aðrar tungur. Það er ekki hægt að þýða eitt andlit á önnur andlit, því að sálin, sem í því speglast, hún opinberar séreðli sitt einmitt í þessu sérstaka formi. Breytið þið einum drætti, og þið sjáið þar ekki sömu sál og áður. Andin lifir í forminu og er óaðskiljanlegur frá því. Menning hverrar þjóðar er sá svipur,

sem hún hefir "meitlað í ásýnd heimsins." Og eins og vér lærum að skilja aðra menn á samlífi við þá, þannig er það um verk þeirra.

Það ætti að vera hverjum manni auðsætt, hve mikið það eykur andlegt víðsýni og þroska, að standa í sambandi við menningu fleiri en einnar þjóðar, kunna fleiri tungur en eina. Það hefir verið sagt, að maður fengi nýja sál í viðbót fyrir hvert mál, er maður lærði, og eg vona að það sé skiljanlegt af því, sem eg þegar hefi tekið fram. Þetta hafa þjóðirnar lengi vitað. Þess vegna hefir tungumálanám jafnan verið talið eitt hið nauðsynlegasta mentameðal. En hvaða mál ætti Íslendingum hér að vera skyldara að stunda auk enskunnar, en einmitt íslenzkuna, sem er móðurmál þeirra og tekur þá í lifandi samband við fortíð þeirra og færir þeim styrk þaðan? Íslenzkan kemur þeim, eins og bent hefir verið á af öðrum, líka að haldi við enskunámið sjálft, vegna þess, að fjöldi enskra orða á sameiginlegar rætur við íslenzkuna. Að það sé hægt að læra tvö mál svo vel að þau séu manni jafntöm í ræðu og riti, vitum vér Íslendingar af eigin reynd. Þeir sem hér tala ensku eins og innfæddir menn, tala margir engu verri íslenzku fyrir það. Og Íslendingar, sem á dönsku rita, skrifa hana margir eins vel og þeir Danir sem bezt gera, og gleyma þó ekki

íslenzkunni. Í því efni er alt undir viljanum komið. En það er eitt atriði í þessu efni, sem mér finst vert að leggja áherzlu á, og það er þetta, að Íslendingar hafa unnið sér álit meðal hérlendra þjóða einmitt sem Íslendingar. Þeir hafa því reynslu fyrir því, að það er hægt að vera hér Íslendingur og þó mikils metinn. Og þá vil eg spyrja: Er það hyggilegt, þegar menn hafa komið einhverri vöru með sérstöku nafni og sérstöku vörumerki í álit og gengi, að skafa þá af henni vörumerkið og setja hana á markaðinn innan um allskonar rusl úr öllum áttum? Mundi bóndi, sem ætti hesta af kyni, sem frægt væri víða um lönd, vilja setja þá á markaðinn í hóp með allskonar truntum og jálkum? Eða mundi sá maður sem ætti mótaða mynt, sem hefði hæzt gengi í kauphöllinni, vilja láta steypa hana upp og gera úr henni mynt með lægra gengi? Það mundi alt þykja lítil hagspeki, en mér finst að sú heimska væri þó lítilsvirði í samanburði við hitt, að glata ágætu þjóðerni. Því gott mannkyn er óendanlega miklu meira virði en gott hestakyn, og konungsmark andans óendanlega miklu dýrmætara en konungsmyndin á myntinni.

En eg heyri menn segja: Íslenzkt þjóðerni hverfur hér fyr eða síðar, því eigum vér þá að vera að halda lífinu í því um stund? Eg kann ekki við því annað svar en það, sem

eg hefi gefið áður: Enginn heilbrigður maður drepur sig í dag fyrir það eitt, að hann veit, að hann á einhvern tíma að deyja. Eg skil ekki hvers vegna menn vilja vera að taka dauðann út fyrirfram, deyja áður en þeir deyja eðlilegum dauðdaga. Alt heilbrigt líf er barátta fyrir lífinu og því sem gerir lífið þess vert að það sé lifað. Sú barátta hefir sín laun í sjálfri sér. Hve lengi hver einstaklingur eða hver þjóð eða hvert þjóðerni fær haldið velli í þessari baráttu, fær enginn vitað fyrir fram. Það eitt er víst, að sá er líklegastur til að halda velli, sem vitrastur er og beztur drengur og ætlar sér að lifa meðan líft er.

Gerum þá ráð fyrir, að það væri einlægur vilji og ásetningur alls þorra Íslendinga hér vestan hafs að halda við þjóðerni sínu. Hvernig á þá að vinna að því? Þér vitið það sjálfir. Eg hefi fáu nýju að bæta við það, sem þegar hefir verið bent á í þessu máli.

Bezta ráðið og það, sem mest á ríður, er yður öllum í sjálfsvald sett. Það er að tala íslenzku á íslenzkum heimilum, og hana svo hreina sem unt er. Þar ráða mæðurnar mestu. Það er eftirtektavert, að vér tölum aldrei um föðurmál á íslenzku, heldur m ó ð u r m á l, og vér segjum aldrei móðurland á góðri íslenzku, heldur f ö ð u r l a n d. Það er bending um það, að faðir ræður landi, en móðir máli. Móðirin fylgir venjulega föð-

ur barnsins síns hvert á land er vill, en þegar þangað kemur ræður hún því hvaða mál barnið talar. Börnin læra málið af því að það er fyrir þeim haft. Þau læra íslenzkuna, ef ekki er talað annað við þau á heimilunum. Og margir íslenzkir foreldrar hér hafa sagt mér, að vel mætti takast að halda íslenzku barnanna við, þegar þeim er kend hún áður en þau fara að sækja skólann. Þegar þessi íslenzku börn svo ganga hér í skóla þar sem öll kensla fer fram á ensku og þau fá enskumælandi félaga, þá læra þau enskuna jafnfljótt og jafnvel betur, er þau kunna íslenzkuna áður. Ýmsir hafa kvartað yfir því, að skortur væri á íslenzkum bókum, sem væru við hæfi barna og unglinga, er hér alast upp, því auðsætt er að ekki á hér að öllu leyti sama við og heima á Íslandi. Úr því mundi gott barna og unglingablað að miklu leyti bæta, og hér eru svo margir ritfærir Íslendingar vestan hafs, að það ætti ekki að vera þeim ofvaxið að gera slíkt blað vel úr garði. Og ýmislegt af því, sem gefið er út af barnabókum á Íslandi, ætti að geta átt eins vel við hér eins og þar.

Þá geta og sunnudagsskólarnir unnið afarmikið að viðhaldi tungunnar og allur unglingafélagsskapur, ef rétt er á haldið. En fyrir þá unglinga, sem ætla að afla sér víðtækrar þekkingar á íslenzkri tungu og bókmentum vorum, og ganga háskólaveginn,

þarf að vera til skóli, þar sem íslenzk tunga og íslenzkar bókmentir séu kendar með anda og krafti. Þér vitið öll, að byrjun til þessa er komin. Þér vitið, að í Winnipeg hefir verið stofnaður skóli, sem að maklegleikum er kendur við þann mann, sem mestur og beztur hefir verið forvígismaður íslenzks þjóðernis hér vestan hafs, skóli Dr. Jóns Bjarnasonar. Skólinn hefir nú starfað í þrjú ár. Eg hefi haft þá ánægju, að vera gestur þessa skóla, kynnast kennurum hans og sjá þau tæki, sem hann hefir, og eg get sagt það, að eg þekki nokkra skóla, sem orðið hafa frægir víða um lönd og þó byrjað talsvert fátæklegar en hann. Mér finst, að allir þjóðernisvinir hér vestan hafs ættu nú að taka höndum saman og gera úr þessum skóla **aðalvígi íslenzkrar tungu og íslenzkra bókmenta hérna megin hafsins.** Frá þessum skóla eiga að koma efnilegir menn með lifandi áhuga á íslenzkri tungu og íslenzkum bókmentum. Sumir þeirra ættu svo að koma heim til Íslands og ljúka fullnaðarnámi í norrænum fræðum við háskóla Íslands. Að því búnu eiga þeir að koma vestur aftur og leggja undir sig norrænukensluna við háskólana hér og í Bandaríkjunum. Áhuginn á fornbókmentum vorum virðist vera að vakna í Bandaríkjunum og Íslendingar ættu að vera réttkjörnir til að bera sjálfir blys sinnar fornu menningar við alla háskóla

hér vestan hafs. Þeir, sem hér eru fæddir og kunna bæði málin jafnt, ættu að standa öllum öðrum betur að vígi í þessu efni. Þegar þér eignist slíka menn, þá kemur hitt af sjálfu sér, að hægt verður að búa útgáfur af fornbókmentum vorum svo úr garði, að þær séu aðgengilegar fyrir enskmentaða Íslendinga, en um skort á því kvarta sumir nú, sem von er.

Þá vil eg minnast á eitt atriði, sem mikið er undir komið. Það eru beinar samgöngur milli Íslands og Vesturheims. Eg vona að sú byrjun, sem gerð hefir verið síðan stríðið hófst, fái framhald og magnist með tímanum. Komist slíkar samgöngur á, þá vona eg, að þeir verði fleiri og fleiri, sem bregða sér hingað vestur til að taka um skeið þátt í þjóðernisstarfi yðar og styðja það á ýmsan hátt. En engu minna legg eg upp úr hinu, að Vestur-Íslendingar og ekki sízt íslenzk ungmenni, sérstaklega frá skólanum, komi heim til Íslands í sumarleyfinu, dvelji þar hjá frændum og vinum sér til hressingar og kynnist ættlandi sínu af sjón og raun. Eg spái því, að íslenzkan verði þeim fljótt hugljúf og töm á því ferðalagi. Með beinum samgöngum milli landanna ættu ýms verzlunarviðskifti að geta komist á milli Íslendinga vestan hafs og austan og með þeim yrði öll önnur samvinna traustari. Mér finst það horfa beint

við, að þér Íslendingar hér vestan hafs eigið í öllum efnum að verða milliliður milli íslenzkrar og amerískrar menningar, koma því, sem vér eigum dýrmætast í íslenzkri menningu í álit og gengi meðal enskumælandi þjóða, og veita aftur hollum nýjungum úr enskri menning, andlegri og verklegri, inn í þjóðlíf vort. Hverjir ættu að koma því sem bezt er í íslenzkum bókmentum að fornu og nýju á enska tungu, ef ekki einmitt þeir menn, sem tala og rita báðar tungurnar eins og móðurmál sitt? Og hverjir ættu að sjá íslenzkum afurðum leik á borði hér vestra og amerískum heima, ef ekki þeir sem þekkja hvorttveggja bezt?

Það er margt á að minnast, þegar þjóðernismálið verður tekið til rækilegrar íhugunar, og eg drep hér að eins á einstök atriði. Eitt er íslenzku ættarnöfnin. Mér finst ekki einskisvert að þau nöfn, sem menn taka sér hér, sé íslenzk að efni og sniðum. Heima á Íslandi hefir verið sett nefnd til að koma fram með tillögur um íslenzk ættarnöfn, og skrá yfir góð íslenzk eiginheiti karla og kvenna. Nefndin hefir nú lokið starfi sínu og gefið út rit um íslenzk mannanöfn. Þar eru hátt á þriðja þúsund ættarnöfn, sem nefndin hefir myndað. Verk nefndarinnar hefir vakið allmiklar deilur, eins og þér munuð sjá af íslenzku blöðunum, en hver sem dómurinn kann að verða um einstök

nöfn, þá vona eg að þér finnið þarna mjög góð og hljómfögur íslenzk nöfn, sem vert væri að gefa gaum að, ef menn vilja taka upp ný ættarnöfn hér vestra. Ættarnafn er einskonar fáni ættarinnar og á að halda á loft því þjóðerni, sem ættin heyrir til.

Margt mætti segja um það, sem einstök félög gætu gert til að glæða áhugann á íslenzkri tungu og bókmentum, t.d. með allskonar kepni um verðlaun fyrir góða frammistöðu í íslenzku, vel haldnar ræður, fagran flutning á kvæðum o.s.frv. Alt slíkt þekkið þér eins vel og eg og hafið notað það. Þá má ekki gleyma því, hve óendanlega mikill ábyrgðarhluti blaðanna er í þessu máli. Undir starfi þeirra verður hugsunarhátturinn jafnan að miklu leyti kominn.

Háttvirtu áheyrendur! Eg hefi sama sem ekkert minst á örðugleikana við alla þessa baráttu. Það er ekki fyrir þá sök, að eg hafi ekki heyrt þá nefnda. Það er ekki heldur af því, að eg skilji þá ekki. En það er af því, að örðugleikar í þessum efnum eru engin föst og ákveðin stærð. Aðal örðugleikarnir í þessu máli liggja í viljanum og hugsunarhættinum. Þeir hverfa held eg eins og dögg fyrir sólu, þegar þér rísið upp og segið einum rómi: "Íslendingar viljum vér allir vera!

Vér metum ei miljónir einar,
vér miðum auðlegð hjá þjóð

við landeign í hugsjóna heimi
og hluttak í íþrótta sjóð."

Vér viljum ávaxta íslenzka arfinn.

Það má vel vera, að einhverjir skerist úr leik. En við þá menn munuð þér einhvern tíma segja líkt og Hinrik 4. Frakkakonungur sagði við einn af herforingjum sínum, er hann kom of seint til orustu: "Farðu og hengdu þig. Við höfum barist og unnið sigur, og þú varst þar ekki."

